# BORÐSÁLMUR.



KAUPMANNAHÖFN, 1839.

Prentað hjá S. L. Möller.

FORSAUNGVARINN:

Það er svo margt, ef að er gáð,
sem um er þörf að ræða;
jeg held það væri heillaráð,
að hætta nú að snæða.

FÓLKIÐ:

Heyrið þið snáða
hvað er nú til ráða?
það mun bezt að bíða
og hlýða.

FORSAUNGVARINN:

Á einum stað býr þrifin þjóð,
með þvegið hár og skjanna,
við húsbændurna holl og góð,
sem hundrað dæmi sanna.

FÓLKIÐ:

Hvað er að tarna?
hvað sagðurðu þarna?
mættum við fá meira
að heyra.

FORSAUNGVARINN:

Mèr hefir verið sagt í svip,
að sig hún taki' að igla
og ætli nú að eignast skip,
þótt einginn kunn' að sigla.

FÓLKIÐ:

Við litlu má gera,
látum svona vera;
þeir ýtast þá með árum
á bárum.

FORSAUNGVARINN:

Nú eru líka níu menn,
sem nóttina eig' að stytta,
þó varla nokkur viti enn,
hve vænlegt ráð þeir hitta.

FÓLKIÐ:

Segð' ekki leingur!
seinna veit hvað geingur.
Mættum við fá meira
að heyra.

FORSAUNGVARINN:

Á einum stað býr einnig fólk,
sem alltaf vantar brími;
það lifir þar á mysu' og mjólk,
en mest á brennivíni.

FÓLKIÐ:

Æ, hvaða skrambi!
atl' þeir stand' á þambi?
Mættum við fá meira
að heyra.

FORSAUNGVARINN:

Þar hefir verið sofið sætt,
en súngið nokkru miður,
og ullin fremur illa tætt;
en allrabezta fiður.

FÓLKIÐ:

Atl' það sè undur
þótt á þá renni blundur!
Mættum við fá meira
að heyra.

FORSAUNGVARINN:

Þar eru blessuð börnin frönsk
með borðalagða húfu,
og yfirvöldin illa dönsk
á annari hvörri þúfu.

FÓLKIÐ:

Hættu nú herra!
Hèr mun koma verra,
sem þèr er betr' að þegj' um
enn segj' um.